# Minni

# Frakka Konúngs

## í samsæti Islendínga

## í Kaupmannahöfn.

Þann 16. Janúari 1839.

Þrykkt í Berlínga prentverki.

Um Karla-Magnús keisarann
Og kappalídinn Franska,
Og hann, sem margt til virkta vann,
Þann vaska Holgeir danska
I Norðrið fyrrum fræðimenn
Heimfluttu lángar sögur,
Þær kann að vísu Island enn
Og ótal kvæði fögur.

Enn til að prófa undur slík
Og eðli Frankismanna
Varð Islendíngum ærid rík
Sú ósk þau lönd að kanna;
Þar skín um aldir sælust sól
Er safa þrúgna glæðir,
Sem vits og snilli anda ól
Er allskyns bresti græðir.

Þeir seldu lönd, og silfrið skírt
Vid sálar þroska guldu,
I snðri glöddu sinnið hírt
Og saungva forna þuldu;
Parísar-klerka mærdarment
Varð mest á Fróni klaka,
Sæmundí fróða sú var ljent,
Hans sæmd mun yfir taka.

A vorri tíð eim Sæmunds son
Þær sömu gisti slóðir,
Og þannig ný oss vaktist von
Að vingast lands við þjóðir;
Og fyrr enn varði vissa fríð
Nam vitrast Isaláði,
Því Frakka konúngs kveðja blíð
Hans kjærleiks anda tjáði.

Á herskip fagurt hans að vild
Einn hópur fræðimanna
Utbúast rjeð med allri snild,
Vort ættarland að kanna;
Þeir sömdu rit og málverk mæt
Að mind þess kunnug yrði, —
Með vinahótinu holl og sæt
Og hnossa mestu virði.

**Lodvík Filippus,** ljósast nafn,
Mun lýsa Nordur-skauti,
Hann best því valdi bóka-safn
Og boðar hrós þess skrauti —
Spekíngur hans og vinur vor
Nú vorar þakkir skrifi:
Til auðnu liggi öll hans spor,
Øðlíngur Frakka lifi!

***Finnur Magnusson.***